# LÖG

HINS KONUNGLIGA

# NORRÆNA FORNFRÆÐA FÈLAGS.

ÞRIÐJA ÚTGÁFA,

ENDRSKOÐUÐ SAMKVÆMT ÁLYKTUN FÈLAGSINS

28. APRÍL 1846.



KAUPMANNAHÖFN.

PRENTUÐ Í A. MICHAELSENS PRENTSMIÐJU.

1846.

## TILGÁNGR FÈLAGSINS OK FRAMKVÆMDIR.

1.

Tilgángr hins Konúngliga Norræna Fornfræða-Fèlags, sem hefir aðal-atsetr í Kaupmannahöfn, er einkum: í ljós at leiða ok at útskýra íslenzk fornrit; en þar at auki allt sem verða má til at útskýra hina fornu túngu, sögu og fornaldarleifar Norðrlanda, til at hvetja menn til at leggja rækt við norræn fornfræði, ok lífga með því ok glæða ást til feðra vorra ok fóstrjarðar.

2.

Til at koma þessu fram ætlar fèlagit einkum at leitast við at láta smámsaman prenta vandaðar útgáfur af öllum norrænum fornritum, sem eru til fróðleiks um sögu, fornleifar eða túngu landanna. Varast skal at gefa út þau rit, sem nefnd Arna Magnússonar lætr prenta í sama mund.

3.

Fèlagit lætr út gánga fornfræðiligt tímarit „Antiquarisk Tidsskrift", þar skulu vera í skýrslur um framkvæmdir þess, ágrip af reikníngum ok fèlagatal; sömuleiðis árbækr um norræna fornfræði ok sagnafræði, „Annaler for nordisk Oldkyndighed og Historie", ok skulu þar vera danskar, norskar, svenskar ok íslenzkar ritgjörðir, þættir ok skýrslur, þær er útskýra efni fornrita ok þat er fornöld Norðrlanda viðvíkr í öllum greinum. Svo at fèlagit ok framkvæmdir þess verði einnig kunnugri útlendum mönnum, heldr þat ok uppi tímariti, sem heitir „Mémoires", ok verða teknar í þat ritgjörðir á franska, enska eða þýzka túngu. Framan á bókum

þeim, sem fèlagit gefr út, skal jafnan standa nafn fèlagsins sem útgefanda, en ekki nafn umsjónarmanns ritanna.

4.

Nefnd af fèlagsmönnum er sett til at starfa at útgáfu fornritanna ok þýðíngu þeirra; hún heitir Fornrita-Nefnd, ok gegnir hún öllum vísindaligum störfum sem þar at lúta. Fèlagit vill einnig kappkosta, eptir því sem færi er á, at haldast mætti ein Norsk, ein Svensk ok ein Dönsk Fornfræða-Nefnd, sem hver um sik skyldi starfa at þeirri grein fornfræðanna, er snertir hvert þessara landa sèrílagi. Nú gengr maðr úr nefnd, ok skulu þeir sem eptir eru kjósa mann í staðinn, ef kostr er á, ok bera upp kosnínguna fyrir fèlagit til samþykktar.

5.

Fèlagit vill enn fremr styrkja útgáfu annarra verka, sem eru tilgángi þess til framkvæmdar, ok þar at auki, jafnskjótt ok þat eflist svo mjök at fèlagastyrk ok gjöfum velgjörðamanna, at þat sèr færi á, leitast við á annan hátt at efla þekkíngu á fornöld Norðrlanda ok bókmentum, ok fýsn til þess fróðleiks, þó svo, at aðaltilgángr fèlagsins, sem er auglýsíng fornritanna, at engum kosti verði vanræktr.

6.

Með úrskurðum konúngs 27. Aug. 1845 ok 7. Febr. 1846 er stofnsett Skjalasafn í fornfræði ok sagnafræði, sem samtengt er Fornleifa-Nefndinni ok Fèlaginu. Í safni þessu eru tvær deildir: 1, forn-norræn ok íslenzk deild, er geyma skal frumrit eðr eptirrit af brèfum ok öðrum merkiligum skjölum, þeim er fróðlig eru til at lýsa danskri túngu ok sögu landsins til ársins 1450, svo ok íslenzk ok forn-norræn handrit, ok söfn þau er snerta sögu ok fornfræði Færeyja, Íslands ok Grænlands. 2, fornfræðilig hèraða-lýsínga deild, er geyma skal skýrslur, lýsíngar, uppdrætti o. fl. sem snertir norrænar fornaldarleifar, ok sèrílagi

fornfræðiligar hèraða-lýsíngar í Danaveldi, sömuleiðis myndir ok lýsíngar fornleifa, sem líkjast hinum norrænu. Hin fyrri deilda þessara er nánast samtengd fèlaginu, ok hefir þat fyrst um sinn lagt þar við bókasafn sitt í fornfræðum ok sagnafræði. Safn þetta er ætlat til at styrkja framkvæmd hins annars aðaltilgángs, er fèlagit hefir, at efla fróðleik í öllum þeim greinum, er snerta hina fornu túngu, sögu ok fornleifar Norðrlanda.

## FÈLAGAR, RÈTTINDI ÞEIRRA OK SKYLDUR.

7.

Til rèttra Fèlaga skal kjósa, bæði hèr á Norðrlöndum ok í útlöndum, valinkunna menn, þá er elska ok iðka vísindi, ok vænta má styrks af til framkvæmda, en einkum ritgjörða. Þeir sækja fèlagsfundi at vild sinni ok hentugleikum, til at ráðgast um málefni þau, sem þar verða lögð til umræðu.

8.

Sèrhverr Fèlagi á Norðrlöndum greiðir venjuliga fèlaginu at minnsta kosti 3 ríkisbánkadali á ári hverju, ok skal lokit innan Októbers loka ár hvert. Heimilt er hverjum fèlaga at greiða fyrirfram tillag sitt fyrir fleiri ár, eða at gjalda 50 rbd. í stað hins árliga gjalds, ok er þá þessari greiðslu lokit í einu. Allir fèlagar í útlöndum gjalda á þenna hátt tillög sín í einu lagi. Þeir fèlagar, sem veita 100 rbdala styrk, eðr meiri, verða settir í tölu hinna Stiptandi Fèlaga, ok standa nöfn þeirra í öllum ársskýrslum. Sá sem kosinn er án þess hann viti áðr ok veiti samþykki sitt, greiðir ekki tillag.

9.

Fèlagar á Norðrlöndum fá ókeypis tímaritið „Antiquarisk Tidsskrift", en fèlagar í útlöndum tímaritið „Mémoires".

10.

Stjórnendum fèlagsins er veitt vald til, þegar þeir sjá at því gagn til framkvæmdar nokkru fyritæki, at veita þeim viðtöku sem hluttektarmönnum, er láta sèr annt um fyritæki fèlagsins, einkanliga þau, er snerta hin alþýðligu söfn sem samtengd eru fèlaginu, eðr ok um rit þess. Hluttektarmenn eru eigi fèlagar, ok hafa því eigi rèttindi fèlaga nè skyldur, en fá þó ókeypis tímaritið „Antiquarisk Tidsskrift."

## STJÓRN FÈLAGSINS OK EMBÆTTISMENN.

11.

Þessir hafa stjórn fèlagsins á hendi: Forseti, Varaforseti, Ritari ok Fèhirðir; þeir hafa embætti á hendi þrjú ár, en þó má kjósa þá aptr at nýju. Þeir eiga at annast eignir fèlagsins ok tekjur, ok sjá um at þær sè geymdar ok ávaxtaðar, svo ok at þeim sè varit samkvæmt ákvörðun fèlagsins.

12.

Stjórnendr fèlagsins eiga fundi með sèr, til at útkljá hin smærri mál, ok ræða um hin stærri til undirbúnings undir aðalfundi. Þeir hafa ok hverr um sik þessar skyldur sèrílagi:

13.

Forseti á at vaka yfir hag fèlagsins, sjá um at lögunum sè hlýdt, ákvarða nær fundi skal halda ok stýra á fundum.

14.

Varaforseti gegnir skyldum forseta, þegar hann er ekki viðstaddr.

15.

Skyldur Ritara:

1) Hann ritar í fundabókina, sem innsigluð er með fèlagsins innsigli ok löggylt af forseta, allt þat, sem fram ferr á fundum ok snertir fèlagit.

2) Hann birtir með boðsbrèfi, eptir ákvörðun forseta, nær fundi skal halda, ok skal geta í brèfinu helztu málefna, sem um skal ræða.

3) Hann safnar atkvæðum á fundum.

4) Hann semr skýrslu um athafnir fèlagsins, sem auglýst verðr í hinu fornfræðiliga tímariti.

5) Hann gjörir fèhirði skýrslu árliga um tölu fèlagsmanna, ok hve mikit tillag hverr greiðir.

6) Hann er í stjórnar-nefnd hins fornfræðiliga skjalasafns ok bókasafnsins.

7) Til ritara skal jafnan kjósa einn úr fornrita-nefndinni. Hann er framsögumaðr nefndarinnar á fundum ok skýrir frá hvat ágengt verðr störfum hennar.

16.

Skyldur Fèhirðis:

1) Hann heldr reikníngsbók, ok ritar í hana tekjur allar ok útgjöld, svo sem hann tekr við eðr lætr úti, at tilgreindum degi ok tölu hvers skýrteinis sem heyrir hverjum dálki. Á sèrhverja kröfu verðr at vera rituð ávísun forseta eðr varaforseta, ok ritara, áðr en hún verði goldin af sjóði fèlagsins.

2) Hann skal sjá um, at fèlagit leifi ok láti á vöxtu at minnsta kosti fimtúng af hvers árs tekjum, til þess fèlagit geti safnat sèr föstum sjóði ok varizt sundrúngu.

3) Hann skal hafa ársreikníng sinn tilbúinn svo snemma, at hann verði lagðr fyrir fèlagit á aðalfundi í Janúar-mánuði.

17.

Á ári hverju skal kjósa tvo Rannsóknarmenn, til at yfirskoða reikníng fèhirðis. Finni þeir nokkut at í reikníngnum, svari fèhirðir því, ok skal þat útkljá á næsta fundi; þvínæst skal auglýsa ágrip reikníngsins í tímaritinu.

18.

Skjalavörðr í hinni forn-norrænu ok íslenzku deild skjalasafnsins skal vera fèlagsmaðr; hann skal vera fastr skjalavörðr ok bókavörðr fèlagsins.

## FÈLAGSINS FASTI SJÓÐR.

19.

Fèlagsins fasti sjóðr, sem stofnsettr er til útgáfu íslenzkra fornrita ok norrænum fornfræðum til eflíngar, er grundvallaðr með skrá fèlagsins frá 30. Okt. 1834, staðfestri af konúngi 31. Decembr. sama ár.

20.

Í sjóð þenna, er aldrei má skerða, heldr verja einúngis leigunni, skal jafnskjótt leggja öll hin föstu tillög fèlaga í útlöndum, ok á Norðrlöndum þau, sem fèlagar greiða í einu lagi, ok þar at auki allar stórgjafir. Þegar tillög þessi ok gjafir verða minni en fimtúngr allra árstekjanna, skal þó leifa svo mikinn hluta þeirra ok leggja til sjóðsins.

21.

Stjórnendr fèlagsins eiga at vaka yfir at þessari ákvörðun verði fullnægt á hverju ári, ok fèhirðir á fyrir sitt leyti at skýra

frá í reikníngnum, at svo mikit sè leift ok lagt í sjóðinn, sem á er kveðit. Rannsóknarmenn reiknínganna skulu einnig á hverju ári greiða vottorð um þat til auglýsíngar í skýrslum fèlagsins.

22.

Skuldabrèf þau, sem sjóðrinn á, skal rita í bækr þær, sem opit brèf 4. Apríl 1835 býðr at gjöra skuli handa hinum föstu ríkisskuldabrèfum, er afhent verða ríkisskulda-stjórninni; en á skýrteini því, sem veitt er fyrir bókuninni, skal standa ákvörðun sú, sem stendr í 4. grein í skránni: at sjóðinn megi hvorki selja nè á nokkurn annan hátt afhenda. Varaforseti, ritari ok fèhirðir skulu rita nöfn sín í skuldabrèfa-bókina af fèlagsins hálfu. Bókun þessi á vöxtum sjóðsins skal fram fara þriðja hvert ár, en rita skal jafnóðum á hvert skuldabrèf sem keypt er, samkvæmt skránni, at þat megi ekki selja nè afhenda, ok skal jafnskjótt láta bóka þat í registrum skuldabrèfa hjá ríkisskulda-stjórninni.

## FÈLAGS FUNDIR OK FUNDASTÖRF.

23.

Fèlagit á venjuliga fjóra aðalfundi á ári, í fyrsta mánuði hvers hálfsmisseris; þó má fleiri eiga, ef nauðsyn krefr.

24.

Allir fèlagar eiga atkvæðisrètt.

25.

Ekkert má ákvarða á fundum, nema 15 fèlagar sè við staddir eða fleiri.

26.

Embættismenn ok fèlaga má ekki kjósa nema á þeim fjórum aðalfundum.

27.

Embættismenn skal kjósa með rituðum seðlum, einn í senn.

28.

Uppástúngur um viðtöku manna í fèlagit skal senda ritara í hit seinsta átta dögum fyrir fund, svo hann leggi þat fram fyrir stjórnendr fèlagsins. Sè stjórnendr því samþykkir, skal bera þat upp á fundi, ok þarf þá samþykki tveggja hluta þeirra sem á fundi eru. Sè stjórnendr fèlagsins ekki samþykkir uppástúngunni, ok uppástúngumaðr æskir allt at einu at málit verði upp borit, skal þat gjöra á næsta fundi eptir. Fèlaga skal kjósa með knöttum, kjósa má ok útlenda menn með rituðum seðlum. Hverjum þeim, sem kosinn verðr, skal senda til merkis kosníngarskrá, staðfesta með nöfnum forseta, varaforseta ok ritara, ok innsiglaða með fèlagsins innsigli, ok þar at auki lög þessi. Ef svo mætti at bera, at þörf þætti at bera upp at vísa manni úr fèlaginu, þá skal þat gjöra af hendi fèlagsstjórnarinnar; skal þat bera upp á aðalfundi ok þarf til þess tvo hluti atkvæða þeirra sem á fundi eru.

29.

Þegar fèlagit stofnar nokkurt nýtt fyritæki, skal bera þat upp áðr á aðalfundi, ok ákveða um þat, einkanliga at því leyti fjártillögur snertir.

30.

Breytíngar í lögum þessum má einúngis gjöra á aðalfundi, ok þarf til þess tvo hluti atkvæða fundarmanna; þó skal frumvarp um þat vera birt á næsta aðalfundi áðr.

31.

Öll önnur mál á fundum verða útkljáð með atkvæðamun, en þegar jöfn eru atkvæði, ræðr sá flokkr sem forseti er með, eðr varaforseti í hans stað.

32.

Skyldi svo ólíkliga verða at fèlagit sundraðist, þá skulu allar eigur þess ok söfn falla til stiptunar Árna Magnússonar.

Kaupmannahöfn í hinu Konúngliga Norræna Fornfræða Fèlagi þann 28. Október 1846.

*FRIÐREKR,*
*Konúngsefni Dana,*
Forseti.

*Finnr Magnússon.* Vara-Forseti. *C. C. Rafn.* Ritari. *J. F. Magnús.* Fèhirðir.

## KONÚNGLIGT OPIT BRÈF.

VÈR FRIDREKR HINN SJÖTTI, með guðs myskunn Konúngr í Danmörku, Vinda ok Gauta, Hertogi í Slesvík, Holsetu, Stórmæri, Þèttmerski, Láenborg ok Aldinborg, gjörum kunnugt: at til at votta velþóknan Vora á framkvæmdum þeim, er hit Norræna Fornfræða-Fèlag, stofnat ár 1825, hefir sýndar látið, viljum Vèr allramildiligast láta því veitt, sem Vèr ok hèr með veitum því, viðrnefnit: „Konúngligt", ok má þat því hèðanaf bera nafnit: „Hit Konúngliga Norræna Fornfræða-Fèlag".

Gefit í Vorum Konúngliga atsetrstað Kaupmannahöfn, 9. Maí 1828.

MEÐ VORRI KONÚNGLIGU HENDI OK INNSIGLI.

*FRIÐREKR REX.*

(L. S. R.)

*Stemann.*

*Monrad. Örsted. Lassen. Kierulff. Hansen.*

*Richter.*

OPIT BRÈF, at hit Norræna Fornfræða-Fèlag, stofnat ár 1825, megi kalla sik „HIT KONÚNGLIGA NORRÆNA FORNFRÆÐA-FÈLAG.

# KONÚNGLIG STADFESTÍNG.

---

VÈR FRIÐREKR HINN SJÖTTI, með guðs myskunn Konúngr í Danmörku, Vinda ok Gauta, Hertogi í Slesvík, Holsetu, Stórmæri, Þèttmerski, Láenborg ok Aldinborg, gjörum kunnugt: At þareð Vorrar allrahæstu staðfestíngar hefir allraþegnsamligast leitað verit fyrir meðfylgjandi Skrá, sem gjörð er 30. Okt. þ. á., um Fastan Sjóð hins Konúngliga Norræna Fornfræða-Fèlags, til útgáfu íslenzkra fornrita ok eflíngar norrænum fornfræðum, svo viljum Vèr fyrrnefnda skrá, er afhent er af orðrètt eptirrit, í öllum hennar orðum, atriðum ok greinum, þannig sem hún kemr hèr fyrir sjónir, allramildiligast löggylta ok staðfesta hafa, svo sem Vèr hèrmeð löggyldum hana ok staðfestum, þó svo, at skráin ok þessi Vor Konúngliga staðfestíng verði þínglesin á lögligan hátt.

Fyribjóðum Vèr öllum, ok hverjum manni, því sem hèr er fyrir mælt mótstöðu at veita.

Gefit í Vorum Konúngliga atsetrstað Kaupmannahöfn, 31. Decembr. 1834.

MEÐ VORRI KONUNGLIGU HENDI OK INNSIGLI.

*FRIÐREKR REX.*

(L. S. R.)

*Stemann.*

*Örsted. M. Lange. Hansen. Bentzen.*

---

*Wilse.*

STADFESTÍNG SKRÁR HINS KONÚNGLIGA NORRÆNA FORNFRÆÐA FÈLAGS UM FASTAN SJÓÐ TIL ÚTGÁFU ÍSLENZKRA FORNRITA OK EFLÍNGAR NORRÆNUM FORNFRÆÐUM.

# SKRÁ

## UM FASTAN SJÓÐ HINS KONÚNGLIGA NORRÆNA FORNFRÆÐA FÈLAGS TIL ÚTGÁFU ÍSLENZKRA FORNRITA OK EFLÍNGAR NORRÆNUM FORNFRÆÐUM.

1. Hit Konúngliga Norræna Fornfræða-Fèlag hefir samkvæmt lögum sínum stofnat Fastan Sjóð, ok eru ársleigur hans ætlaðar fyrst ok fremst einúngis til at auglýsa ok útskýra íslenzk fornrit, ok at öðru leyti til alls þess, sem er til eflíngar norrænum fornfræðum. Grundvöllr sjóðs þessa er sá höfuðstóll, tólf þúsundir ok fimm hundruð ríkisbánkadalir silfrs, sem nú eru fyrirliggjandi eptir reikníngi um fjárhag fèlagsins fyrir næsta umliðit ár 1833, ok stendr þessi höfuðstóll í einu konúngligu skuldabrèfi, sem gefr í leigu fjóra af hundraði.

2. Til aukníngar sjóði þessum skal verja: *a*) öllum föstum tillögum til 50 rbdala reiðu silfrs, sem þeir greiða í einu lagi er í fèlagit gánga (útlendir menn allir, ok menn á Norðrlöndum í stað árligs tillags eptir lögunum); *b*) sömuleiðis öllum stórgjöfum; ok *c*) þó svo beri við, at þessi hin föstu tillög ok gjafir eitthvert ár verði minni en fimtúngr allra árstekjanna, skal þó leifa svo mikit ok leggja til sjóðsins.

3. Stjórnendr fèlagsins eiga at sjá um, at þessari ákvörðun sè fylgt á hverju ári, ok einkum skal fèhirðir hvert ár skýra frá í reikníngi sínum, at svo mikit sem fyrir er mælt sè leift ok lagt til sjóðsins; rannsóknarmenn reikínganna skulu ok á hverju ári greiða vottorð um þat, ok skal þat auglýsa í skýrslum fèlagsins.

4. Sjóð þenna, sem þannig safnast smámsaman, ok er fastr sjóðr fèlagsins, má aldrei skerða með nokkurri ályktun fèlagsins nè stjórnenda þess, ok þessari ákvörðun til styrkíngar skal rita á skuldabrèf þat, er sjóðrinn stendr í, ok öll þau, er hann verðr aukinn með hèðan af: at samkvæmt þessari ákvörðun megi hvorki selja þau nè afhenda á annan hátt.

Þessi Skrá er á fundi í dag samþykkt í einu hljóði, samkvæmt lögum fèlagsins ok fyrr gjörðum ályktunum, ok eru allir fèlagar nú ok síðarr skyldir til at fylgja henni ok nákvæmliga eptir at breyta, í öllum hennar orðum, atriðum ok greinum.

Þessu til staðfestu eru nöfn vor ok fèlagsins innsigli.

Kaupmannahöfn, í hinu Konúngliga Norræna Fornfræða-Fèlagi, 30. Október 1834.

*Schlegel*, Forseti. *Finnr Magnússon*, Varaforseti. *C. C. Rafn*, Ritari. *J. F. Magnús*, Fèhirðir.

(L. S.)

Lesit í hinum Konúngliga Landsyfirrètti, hirðar- ok staðarrètti í Kaupmannahöfn, mánudaginn 19. Janúar 1835.

*Carstens.* *Jacobsen.*

Bókat, ásamt meðfylgjandi staðfestíngu,
*N. C. Petersen.*

# HIT FORNFRÆDILIGA SKJALA OK BÓKA-SAFN.

## ÁKVARÐANIR.

1. Hans Hátign Konúngrinn hefir með allrahæstum úrskurðum 27. Aug. 1845 ok 7. Febr. 1846 samþykkt, at stofna skyldi við hina Konúngligu Fornleifa-Nefnd ok hit Konúngliga Norræna Fornfræða-Fèlag Skjalasafn í sagnafræði ok fornfræði, í tveim deildum, ok eru þær:

I. forn-norræn ok íslenzk deild, er geyma skal merkilig brèf ok skjöl, eðr eptirrit þeirra, þat sem eldra er en ár 1450; sömuleiðis íslenzk ok forn-norræn handrit, ok söfn þau er viðvíkja sögu ok fornfræðum Færeyja, Íslands ok Grænlands.

II. fornfræðilig hèraða-lýsínga deild, er geyma skal söfn af skýrslum, lýsíngum, uppdráttum ok fl., er snertir norrænar fornaldarleifar ok einkum fornfræðiligar lýsíngar hèraða í Danaveldi, sömuleiðis myndir ok lýsíngar fornleifa þeirrá, er líkjast hinum norrænu.

2. Þessu skjalasafni er samtengt Bókasafn þat, sem fèlagit hefir stofnat í sagnafræði ok fornfræði.

3. Tilgángr þessa safns er at efla framför hinnar norrænu fornaldarfræði, ok er ætlazt til at því verði framgengt, þegar hvorutveggju styðja at hinu sama, nefndin ok fèlagit. Menn hafa sèt með ánægju, hversu þessu máli hefir miðat áfram, síðan nefndin ok þeir sem í henni eru náðu at auglýsa skýrslur sínar í árbókum fèlagsins ok tímariti, ok vilja menn nú með þessum hætti undirbúa merkiligri vísindalig fyritæki í þeirri grein.

4. Stjórn safnsins er falin á hendr þriggja manna nefnd, er einn þeirra ritari Fornfræða-Fèlagsins, einkum til at sjá um hina fyrri, eðr forn-norrænu ok íslenzku deildina ok bókasafnit; annarr er ritari Fornleifa-Nefndarinnar, er einkum sèr um hina aðra, þá hina fornfræðiligu hèraða-lýsínga deild. Hinn þriðja nefndarmann skal fornleifa nefndin ok fèlagit kjósa á víxl, þegar umskipti verða, ok skal forseti nefndarinnar bera kosnínguna fram fyrir Hans Hátign Konúnginn til staðfestíngar.

5. Hans Hátign Konúngrinn hefir þar at auki allramildiligast ákveðit, at við safnit skyldi vera þrír skjalaverðir, sem allir skulu styrkja til eflíngar safnsins, þannig, at hinn fyrsti annast einkum hina forn-norrænu ok íslenzku deild ok bókasafnit, en hinir tveir annast hina fornfræðiligu hèraðalýsínga deild. Þegar umskipti verða nefnir Hans Hátign Konúngrinn menn til þessa starfa, eptir uppástúngu forstöðunefndar safnsins, ok skal bera þat fyrir konúng af hendi fornleifanefndarinnar.

6. Kostnað til safns þessa, at fráteknum launum skjalavarðanna, sem ákveðin eru með konúngs-úrskurði 27. Aug. 1845, skal fèlagit greiða at því leyti, er snertir hina fyrri, forn-norrænu ok íslenzku deild, ok bókasafnit, en fornleifa-nefndin greiðir þat er snertir hina aðra, eðr þá hina fornfræðiligu hèraða-lýsínga deild.

7. Húsrúm verðr safninu ætlat í Kristjánsborgar höll.

# DET KONGELIGE

# NORDISKE OLDSKRIFT-SELSKABS

# LOVE.

---

## TREDIE UDGAVE

EFTER EN IFÖLGE SELSKABETS BESLUTNING

AF

28DE APRIL 1846

FORETAGEN REVISION.

---

KJÖBENHAVN.

TRYKT VED S. B. SALOMON,

I F. N. JÖRGENSENS BOGTRYKKERI.

1846.

## SELSKABETS FORMAAL OG VIRKSOMHED.

§ 1.

Det Kongelige Nordiske Oldskrift-Selskab, hvis Hovedsæde er i Kjöbenhavn, har til Formaal fornemmelig islandske Oldskrifters Udgivelse og Fortolkning, men ellers alt, hvad der kan tjene til at oplyse det gamle Nordens Sprog, Historie og Oldsager i Almindelighed, til at udbrede Deeltagelse for den nordiske Oldtidsvidenskab samt derved vække og nære Kjærlighed til Fædre og Fædreland.

§ 2.

For at virke til dette Maal vil Selskabet fortrinligen bestræbe sig for, Tid efter anden at besörge kritiske Udgaver af alle nordiske Oldskrifter, der have Vigtighed for Historien, Oldsagerne eller Sproget. Ved Oldskrifternes Udgivelse skal man söge at undgaae, til samme Tid at udgive de samme Værker som den Arna-Magnæanske Commission.

§ 3.

Fra Selskabet udgives et antiquarisk Tidsskrift, hvori Beretninger om dets Virksomhed og Uddrag af dets Regnskaber med tilhörende Medlemslister kundgjöres, samt Annaler for nordisk Oldkyndighed og Historie, hvori optages danske, norske, svenske og islandske Afhandlinger, Opsatser og Beretninger, som tjene til at oplyse Oldskrifternes Indhold og Nordens Oldtid i Almindelighed. For at gjöre Selskabet og dets Foretagender mere bekjendte ogsaa i Udlandene, udgiver det ligeledes et fortsat Tidsskrift med Bidrag paa Fransk, Engelsk eller Tydsk under Be-

nævnelsen Mémoires. Paa Titelbladet af de fra Selskabet udgivne Skrifter anföres stedse Selskabets Navn som Udgiver, ikke Redacteurens.

§ 4.

Til at besörge Oldskrifterne i Text og Oversættelser udgivne er af Selskabets Medlemmer sammentraadt en Afdeling, benævnt Oldskrift-Afdelingen, der udförer de ved Udgaverne fornödne videnskabelige Arbeider. Selskabet vil bestræbe sig for, ligeledes, saavidt muligt, bestandig at vedligeholde i Virksomhed en norsk, en svensk og en dansk Committee for Oldgranskning, der fornemmelig beskjeftige sig med de hvert af disse Lande særligen vedkommende Grene af den nordiske Oldtidsvidenskab. Indtræffende Afgang i en Committee söger denne, saavidt muligt, at supplere ved Valg af et nyt Medlem og indstiller Valget til Selskabets Approbation.

§ 5.

Selskabet vil ogsaa befordre Udgivelsen af andre til dets Formaals Fremme bidragende Værker; og fremdeles, saasnart det ved Medlemmernes Deeltagelse og Velgjöreres Gaver seer sig i Stand dertil, ogsaa paa andre Maader söge at udbrede Bekjendtskab med og Yndest for det gamle Norden og dets Literatur, dog at Selskabets Hovedöimed, Oldskrifternes Udgivelse, ingensinde tabes af Sigte.

§ 6.

Ved Kongelige Resolutioner af 27de August 1845 og 7de Februar 1846 er der ved Commissionen for Oldsagernes Opbevaring i Forbindelse med Selskabet oprettet et historisk-archæologisk Archiv, der bestaaer af to Afdelinger, nemlig 1, en oldnordisk-islandsk, indeholdende Diplomer, Afskrifter af Diplomer og andre vigtige Actstykker til Oplysning for dansk Sprog og Historie ældre end 1450 samt af islandske og oldnordiske Codices, ligeledes Samlinger til Færöernes, Islands og Grönlands Historie og

Archæologi. 2, en antiquarisk-topographisk, indeholdende Samlinger af Indberetninger, Beskrivelser, Tegninger m. m., vedkommende de nordiske Oldsager i Almindelighed og den danske Stats historisk-antiquariske Topographi i Særdeleshed, ligeledes Afbildninger og Beskrivelser af Oldsager, der have Overeensstemmelse med de nordiske. Af disse to Afdelinger staaer den förste nærmest i Forening med Selskabet, og dette har dermed indtil videre forenet sit historisk-archæologiske Bibliothek; Hensigten med denne Stiftelse er at muliggjöre mere omfattende Bestræbelser for Selskabets andet Hovedformaal, at oplyse det gamle Nordens Sprog, Historie og Oldsager i Almindelighed.

## SELSKABETS MEDLEMMER, DERES RETTIGHEDER OG PLIGTER.

### § 7.

Til virkelige Medlemmer optages almeenagtede Mænd, Videnskabs Yndere og Dyrkere, saavel her i Norden som i Udlandene, af hvem der kan ventes umiddelbar Medvirkning og især videnskabelige Bidrag. De möde efter Lyst og Leilighed i Selskabets Sammenkomster, for at afgive deres Betænkning over de Sager, som der forhandles.

### § 8.

Ethvert Medlem i Norden yder i Reglen et Bidrag, hvis Minimum er fastsat til 3 Rbdlr. Sölv aarlig, som betales inden Udgangen af hvert Aars October Maaned. Det staaer ethvert Medlem frit for at forudbetale Bidraget for flere Aar ad Gangen, ligesom ogsaa istedenfor det aarlige Bidrag at indbetale 50 Rbdlr., hvorved al Forpligtelse til Pengebidrag paa een Gang er afgjort. Dette bestandige Bidrag een Gang for alle yde samtlige Medlemmer udenfor Norden. De Medlemmer, som yde et Bidrag af 100 Rbdlr. eller derover, optages tillige blandt de stiftende Medlemmer, hvis fuldstændige Liste indföres i alle Aarsberetninger. Den, som optages uden forudgaaende Underretning og dertil givet Samtykke, yder intet Bidrag.

§ 9.

Medlemmer i Norden erholde uden Betaling Selskabets antiquariske Tidsskrift, og Medlemmer udenfor Norden dets Mémoires.

§ 10.

Bestyrelsen er bemyndiget til, forsaavidt den for særskilte Formaal skulde finde det hensigtsmæssigt, at antage som Deeltagere saadanne, der vise Interesse for Selskabets Foretagender, navnligen for de i Forbindelse med det staaende offentlige Samlinger eller for dets udgivne Skrifter. Deeltagere ere ikke Medlemmer og have altsaa ikke et Medlems Rettigheder eller Pligter, men erholde dog uden Betaling Selskabets antiquariske Tidsskrift.

## SELSKABETS FORVALTNING OG EMBEDSMÆND.

§ 11.

Selskabet bestyres af en Præsident, en Vice-Præsident, en Secretair og en Casserer, hvis Embedstid fastsættes til tre Aar, hvorefter de samme dog igjen kunne vælges. Disse have Opsyn med Selskabets Eiendele og Indtægter, og maae sörge for sammes Vedligeholdelse, Forögelse og Anvendelse efter Selskabets Bestemmelse.

§ 12.

Bestyrelsen afholder særskilte Möder til mindre betydelige Sagers Afgjörelse og de betydeligeres Overveielse til Forberedelse for Hovedmöderne. Iövrigt har hver især af Bestyrelsens Medlemmer fölgende særdeles Pligter:

§ 13.

Præsidenten vaager over Selskabets Vel og holder over Lovene, bestemmer, naar Sammenkomster skulle holdes, og har Forsæde i samme.

§ 14.

Vice-Præsidenten paaligge i Præsidentens Forfald dennes Pligter.

§ 15.

Secretairens Pligter.

1) Han indförer i en med Selskabets Segl forsynet og af Præsidenten autoriseret Forhandlingsbog Efterretning om alt, hvad der, Selskabet vedkommende, i hver Sammenkomst foretages.
2) Han besörger, efter Præsidentens Bestemmelse, bekjendtgjort, naar Möder skulle holdes, ved Omgangsbrev, hvori angives de vigtigste Sager, der skulle foretages og overveies.
3) I Möderne samler han Stemmer ved Voteringer.
4) Han forfatter Efterretningen om Selskabets Forhandlinger til Indrykkelse i Antiquarisk Tidsskrift.
5) Han gjör aarligen Beretning til Cassereren om Medlemmernes Antal, og hvor stort Bidrag enhver yder.
6) Han er Medlem af den bestyrende Committee for det historisk-archæologiske Archiv og Bibliothek.
7) Til Secretair skal altid vælges et Medlem af Oldskrift-Afdelingen. Han er denne Afdelings Ordförer i Sammenkomsterne og giver i samme Efterretning om Fremgangen med dens Arbeider.

§ 16.

Cassererens Pligter.

1) Han förer en Cassebog og indförer i den samtlige Indtægter og Udgifter, dem han modtager og udbetaler, ved Dag og med Nummere af de til begge Dele henhörende Beviser. Alle Regninger maae, for at kunne betales, være til Udbetaling paategnede af Præsidenten, eller i hans Forfald af Vice-Præsidenten samt af Secretairen.

2) Da Selskabet, for at undgaae Oplösning, skal söge at erhverve sig en fast Fond, og derfor oplægge og gjöre frugtbringende i det mindste $\frac{1}{5}$ af sin aarlige Indtægt, saa skal han sörge for, at saadant skeer.
3) Han maa have sit aarlige Regnskab saa betids færdigt, at det kan fremlægges i Selskabets Januar-Möde.

§ 17.

Hvert Aar vælges tvende Revisorer til Eftersyn af Cassererens Regnskab. Hvad Udsættelser disse maatte antegne ved samme, besvares af Cassereren og afgjöres i næste Möde, hvorefter Uddrag af Regnskabet indföres i Antiquarisk Tidsskrift.

§ 18.

Den ved det historisk-archæologiske Archivs oldnordisk-islandske Afdeling ansatte Archivsecretair, som skal være Medlem af Selskabet, fungerer som Selskabets bestandige Archivar og Bibliothecar.

## SELSKABETS FASTE FOND.

§ 19.

Selskabets faste Fond for islandske Oldskrifters Udgivelse og nordisk Oldkyndigheds Fremme er betrygget ved en under 30te October 1834 oprettet og under 31te December samme Aar kongelig confirmeret Fundation.

§ 20.

I denne Fond, som er bestandig urörlig, saa at alene Renterne kunne anvendes, indlemmes strax alle bestandige Bidrag, som Medlemmerne erlægge ved deres Optagelse, de udenfor Norden samtlige, de her i Norden istedenfor aarligt Bidrag; ligeledes alle större Donationer, og i det Tilfælde at disse bestandige Bidrag og Donationer noget Aar skulde udgjöre mindre end en femte Deel af Aarets hele Indtægt, skal dog en saa stor Deel af denne oplægges og föies til Fonden.

§ 21.

Det paaligger Selskabets Bestyrelse at vaage over at denne Bestemmelse hvert Aar iagttages, og navnligen Cassereren at meddele i Regnskabet Oplysning om, at det behörige Belöb er oplagt og föiet til Fonden, ligesom ogsaa Revisorerne hvert Aar maa afgive Erklæring desangaaende til Offentliggjörelse i Selskabets Beretninger.

§ 22.

De Obligationer, som udgjöre denne Fond, indföres i de ved Placat af 4de April 1835 oprettede Indskrivningsprotocoller for uopsigelige Statspapirer, der indleveres til Directionen for Statsgjelden og den synkende Fond, og skal Indskrivningsbeviset indeholde den Bestemmelse, som § 4 af Fundationen foreskriver, at Fonden nemlig ikke kan sælges eller paa anden Maade overdrages. Vice-Præsidenten, Secretairen og Cassereren underskrive paa Selskabets Vegne i Indskrivningsprotocollen. Indskrivningen af Fondens successive Tilvæxt foretages hvert tredie Aar, og maa de imidlertid indkjöbte Obligationer strax forsynes med den fundatsmæssige Paategning som uafhændelige og denne umiddelbar derefter noteres i Statsgjeldscontoiret.

## SELSKABETS SAMMENKOMSTER OG DE FORHANDLINGER DER FORETAGES.

§ 23.

Selskabet holder ordentligviis 4 Sammenkomster om Aaret i ethvert Fjerdingaars förste Maaned; dog ogsaa flere, om fornödent gjöres.

§ 24.

Stemmeret have samtlige Selskabets Medlemmer.

§ 25.

Ingen Beslutning maa tages, naar ikke i det mindste 15 Medlemmer ere tilstede.

§ 26.

Embedsmænds og nye Medlemmers Valg kan kun skee i eet af de 4 bestemte Möder.

§ 27.

Valget af Embedsmænd skeer ved skrevne Sedler, efterhaanden paa særskilte Sedler for hver.

§ 28.

Forslag om nye Medlemmers Optagelse maa indsendes i det sildigste otte Dage för det forestaaende Möde til Secretairen, for af ham at forelægges Bestyrelsen. Naar Forslaget har fundet dennes Bifald, fremsættes det siden i Mödet, og til Optagelsen udfordres $\frac{2}{3}$ af de tilstedeværende Medlemmers Stemmer. Dersom Forslaget ikke finder den forenede Bestyrelses Bifald, og Proponenten desuagtet önsker det fremsat, foranstaltes dette i det paafölgende Möde. Medlemmer optages ved Ballotering, dog kan Optagelsen af Medlemmer i Udlandene skee ved skrevne Sedler. Enhver, der er valgt til Medlem, sendes til Efterretning om Valget et af Præsidenten, Vice-Præsidenten og Secretairen underskrevet og med Selskabets Segl forsynet Diplom og et Exemplar af disse Love. Naar der skulde være Anledning til at foreslaae et Medlems Udelukkelse, da skeer dette gjennem Bestyrelsen paa et Fjerdingaarsmöde og udfordres dertil $\frac{2}{3}$ af de tilstedeværendes Stemmer.

§ 29.

Naar Selskabet begynder noget nyt Foretagende, maa der i et Fjerdingaarsmöde gjöres Forslag og tages Bestemmelse desangaaende, navnlig med Hensyn til de dertil fornödne Pengemidler.

§ 30.

Forandringer i disse Love kunne ikkun foretages i et Fjerdingaarsmöde og med $\frac{2}{3}$ af de tilstedeværende Medlemmers Stemmer; dog maa Forslag derom alt være bekjendtgjorte i det forrige Fjerdingaarsmöde.

